# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., JÚNÍ 1894. | 6.

## Endrlausnin.

Ræða eftir M. J. Skaptason.

---

Ég hefi tekið mér fyrir umræðuefni í þetta sinn endurlausnina, sem stundum er nefnd friðþæging, og þá vanalega meint friðþæging Krists við syndarana, fórnardauði hans á krossinum til þess, að allir menn sem á hann tryðu fengju fyrirgefning allra sinna synda. Vér vitum það allir, að trú þessi hefir verið gjörð sáluhjálpar-skilyrði hjá öllum hinum rétttrúuðu kirkjuflokkum kristninnar. Hver, sem ekki hefir trúað þessu, hefir ekki mátt vænta sér nokkurrar miskunnar eða náðar hjá guði, hann er einn af flokki hinna fordæmdu, sem á að fara í díkið er vellr af eldi og brennisteini. Það er engum blöðum um það að fletta, að hver sem ekki trúir þessu sáluhjálpar-atriði, hann getr ekki verið í neinu rétttrúuðu kirkjufélagi. En hvernig stendr nú á þessari trú og hvaðan er hún komin? Var hugmyndin um friðþægingu til, áðr en kristni kom í heiminn, eða kom hún fyrst í heiminn með kristninni? Til þess að svara spurningum þessum verðum vér að bregða oss austr í austrlöndin, þar sem að líkindum vagga mannkynsins hefir staðið, vér þurfum að grenslast eftir hugmyndum og siðum og trúbrögðum hinna fornu þjóða þar, og sjá hvað þær hafa hugsað og hverju þær hafa trúað.

Vér finnum þá, að á mjög margvíslegan hátt hafa þær reynt að blíðka guði sína, er þeir héldu að þeir væru sér reiðir, eða lokka þá

til þess að vera sér góðir og hliðhollir. Smátt og smátt hefir svo skoðanin myndast, að færa þeim dýrari og dýrari fórnir fyrir brot og bresti, sem menn frömdu. Fyrst hefir það byrjað þannig, að menn hafa tekið eftir því að hinir jarðnesku drottnar hafa orðið blíðari og mildari við þegna sína, er þeim voru gjafir færðar. Vér vitum, að menn gangast svo fyrir gjöfum enn þann dag í dag, að menn ekki einungis sýna þeim velvild og vináttu, sem færa mönnum þær, sjá í gegnum brot og bresti annara, jafnvel breyta móti því sem er satt og rétt og sæmilegt, þegar þær eru í boði. Ef að einhver hafði brotið á móti konungi sínum, þá var vegrinn að ná aftr hylli hans sá, að færa honum gjafir, ef einhver hafði vegið mann af liði hans, eða ættingja hans, eða hafið ófrið á móti honum, þá var ráðið það, að blíðka hann með gjöfum. Ef að konungarnir voru harðir og grimmir við þegna sína, þá var það bezta sem þegnarnir gátu gert, að færa þeim gjafir. Þegar menn fóru að flytja tilbeiðslu sína frá ættarhöfðingjanum yfir á einn eðr annan guð, hvort heldr það var líkneskja eða dýr eitt, eða sól eða tungl, eða ósýnilegr andlegr guð, þá höfðu menn sama mátann, að blíðka þá á sama hátt og hina jarðnesku drottna. Þegar því óveðrið lamdi niðr kofa þeirra, þegar jörðin skalf og nötraði í jarðskjálftum, þegar vatnsflóðin týndu skepnum þeirra, eyðilögðu jarðargróða þeirra, þá héldu þeir að guð væri sér reiðr, og hugsuðu sér að þeir skyldu reyna að blíðka þenna reiða guð á sama hátt, og hina jarðnesku drottna sína, með gjöfum. En nú komu vandræðin fyrir þá. Þeir gátu ekki flutt þessar gjafir fram fyrir hásæti himnakonungsins, þeir náðu ekki upp þangað; þá tóku þeir það til bragðs, að brenna þessar fórnir sínar, til þess að r e y k r i n n legði upp fyrir drottinn og hann findi „velþóknanlegan ilm,“ eins og ritning Hebrea segir. Alls staðar í sögu og trúbrögðum þjóðanna finnum vér óhrekjanleg dæmi þessa, hjá Grikkjum, Rómverjum, Persum, Hindúum, Hebreum. Fyrst virðist svo sem menn hafi fórnað og brent ávöxtum jarðar, rótum, ilmjurtum, sem fyrst var fyrir hendi og ekki kostaði mikið, en brátt fóru menn að hugsa sér það, að því dýrmætari sem fórnin væri, því fyr og því betr mundu þeir ná hylli guðs síns. Af þessu leiddi það, að menn fóru að slátra nautum, sauðum, höfrum, dúfum og öðrum tömdum dýrum. Þegar vér lítum til þessa, þá getum vér skilið hvernig stóð á því, að drottni þóknaðist betr dýrafórn Abels heldr en fórnir Kains af jarðargróða. Jarðargróði sá, sem Kain fórnaði guði, var ekki eins mikils virði eins og úr-

valið úr hjörðunum sem Abel fórnaði. Hjá öllum þjóðum, sem frambera þessar fórnir, hefir hugsunarháttrinn verið sá, að því fremr mundu menn ná hylli guðs, því dýrari fórnir sem menn færðu honum, og loks leiddi það til þess, að menn fóru að taka menn til að fórna þeim. Voru það fyrst fangar sem menn tóku í hernaði, svo fóru menn að fórna þjónum sínum og loks börnum sínum. Vér sjáum dæmi þess í ritningunni, þar sem Jephta fórnaði dóttur sinni, Dóm. 11, 30. Abraham ætlaði að fórna Ísaak syni sínum. Manasse fórnaði syni sínum. Gyðingar yfir höfuð fórnuðu Móloch börnum sínum í Hinnomsdal hjá Jerúsalem. En Gyðingar voru ekki einir um þetta, vér höfum dæmin af Hákoni Hlaðajarli og mörgum öðrum. Frá þessu, að fórna guði börnum sínum, svo hryllilegt og viðbjóðslegt sem það er, er ekki nema eitt stig til þeirrar hugmyndar, að guðirnir geti ekki orðið blíðkaðir við annað en að fórna sjálfum sér. Hærra geta menn ekki komist. En þegar menn taka til þessa, þegar menn taka til að draga Guð af himnum ofan og fórna honum fyrir syndir mannanna, þá friðþægir hann líka fyrir syndir allra manna á öllum tímum fyr eða seinna. Þannig var það um guðinn Krishna. Hindúar trúðu því að guð tæki á sig manns mynd á vissu tímabili, 600 ára fresti. Hin 8. holdtekja guðs var þegar guð birtist í Krishna, nálægt 1200 árum fyrir Krist. Þessi Krishna var krossfestr líkt og Kristr Gyðinga, og trúðu Hindúar því að hann þá hefði friðþægt fyrir syndir alls heimsins, og hættu þá öllum fórnum til guðanna.

Annar máti að friðþægja fyrir syndir manna var sá, að hlaða þeim á eitt eða annað dýr, og var svo dýr þetta rekið með alla syndabyrðina út í óbygðir. Siðr þessi hefir að líkindum verið eldri, en að slátra dýrum og brenna þau, svo að reykinn legði upp fyrir himnaguðinn. Syndirnar voru bundnar á bak eða við horn dýrinu áðr en því var slept, var það gert með rauðu klæði, og þegar klæðið fór að lýjast fyrir veðri eða regni, fór af því rauði litrinn og syndirnar minkuðu. Í ritningunni höfum vér dæmi þessa um syndahafrinn hjá Móses og mjög víða annars staðar. Egyftar höfðu synda-uxa, Hindúar og Parsar syndahest, Kaldear synda-hrút, Mexíkóbúar synda-lamb og synda-mús. Á líkan hátt er það að spámenn Gyðinga segja að lambið guðs, Kristr, eigi að bera burtu allar heimsins syndir. Þeir höfðu í fyrstunni vanist því að leggja syndirnar á hafrinn eða skepnuna, og svo seinna, þegar þeim þótti meira við þurfa, lögðu þeir allar syndirnar á herðar Kristi. Pétr post-

uli segir það skýrt, að Kristr hafi borið syndir vorar upp á tréð, 1. Pét. 2, 24. En alls staðar var þessi hin sama hugmynd svo rík í mönnum, að skella öllum sínum syndum upp á aðra, að vilja sleppa hjá þeim sjálfir, en koma þeim af herðum sér yfir á einhvern annan saklausan. Hinn saklausi átti að líða fyrir hinn seka. Fyrrum var það, að blóð dýra, nauta, sauða, hafra, átti að friðþægja fyrir syndir ættflokks eins eða þjóðar, en svo þótti mönnum það ekki duga, þótti ekki einu sinni duga blóð manna, eigin barna sinna, menn heimtuðu guðs eigin blóð. Syndirnar voru svo miklar, guð var svo reiðr, að ekkert dugði annað en guðs eigið blóð. Þessar blóðfórnir voru því heiðinglegar, þær báru vott um grimd og dýrslegt eðli þjóðanna, um heift þá og kærleiksleysi er í þeim bjó, þar sem þeir héldu að ekkert gæti sefað reiði guðs nema blóð. Oss hryllir við þessum þjóðum, sem fórnuðu herteknum mönnum, sínum eigin börnum, en þó höfum vér alt til skamms tíma haft alveg hinn sama hugsunarhátt; vér höfum viljað sleppa hjá syndum vorum og koma þeim á aðra, vér höfum lifað í þeirri von að guð hafi verið svo góðr við oss, að leggja allar vorar syndir upp á Krist, og vér höfum verið svo hjartanlega glaðir yfir því að Kristr skyldi vera saklaus, svo hjartanlega glaðir yfir því, að geta slett öllum vorum syndum, öllum vorum misgjörðum, öllum vorum fólskuverkum, öllum vorum illyrðum, upp á hinn saklausa. Já, þar kemr fram réttlætið himneska, að láta hinn saklausa líða. Þetta á að vera guðs óendanlega, eilífa réttlæti. Víkingaeðlið er ekki enn þá útdáið í hjörtum manna, grimd og heift ríkir enn í hjörtum þeirra manna sem þannig trúa, og svo þessi auðvirðilegi aumingjaskapr, að skorast undan að bera ábyrgð verka sinna, að fremja skammirnar, en vilja svo koma hegningunni upp á aðra. En ætlið þér nú virkilega að guði, hinum kærleiksríka himnaföðr, sé þannig varið? Ætlið þér virkilega að réttlætið sé í því fólgið, að hinn saklausi líði fyrir hinn seka? Ætlið þér virkilega að ímynd kærleikans, Guð vor himneski faðir, fari að taka sitt eigið elskaða barn, og láti það saklaust líða fyrir þorparann og bófann, hræsnarann, lygarann og illgjörðamanninn? Vér skulum reyna að skýra það með dæmi. Margir af þeim sem hér eru inni hafa verið feðr og mæður, aðrir hafa átt vini sem þeir hafa elskað fremr öllu öðru, föðr eða móður, eða bræðr, eða systur, eða unnusta, eða unnustu, eða kæran leikbróðr, eða leiksystur, eða margreyndan vin. Ef einhver illræðismaðrinn skyldi nú fremja morð hér í bænum, ætli að þér vilduð þá taka þenna

kæra ástvin yðar og láta lífláta hann saklausan fyrir hinn seka? Eða ætlið þér að dómnefndin mundi taka það gilt að hinn saklausi dæi fyrir morðingjann. Eða móðurina, sem hefir barnið unga á brjósti sínu. Hún elskar það svo heitt og innilega, sjáið hvernig andlit hennar ljómar af kærleika og gleði, er hún horfir í augu síns elskaða barns, hún þrýstir því svo fast að hjarta sínu, hún finnr til svo mikillar unnunar af að hafa það í faðmi sínum, sjáið hvernig barnið brosir við henni, það er eins og óvitinn skilji þessa óumræðilegu ást, og bros barnsins endrskín í augum móðrinnar, það bregðr yfir hana heilögum ljóma, ó, hvað henni þykir vænt um það, ó, hvað hún elskar það. Ég er sannfærðr um það, að enginn mannlegr penni er fær um að skýra eins og ber, ást móðurinnar á barni sínu; hún vill líða fyrir það þrautir og þjáningar, ekkert þykir henni ofgott fyrir það, hún ver það fyrir öllu illu, sem henni er mögulegt; hún skoðar það sem hina kærustu gjöf frá sínum elskulega himneska föðr; hún elskar manninn fyrir að vera föðr barnsins; hún lofar guð fyrir það, að hann veitti henni það, að eignast þetta barn; þrautir og hörmungar, basl og bágindi, hatr og fjandskapr, alt þetta er gleymt, þegar hún hefir barnið í fangi sér. Þegar ég heyri einn eðr annan tala um gjörspilling manna, að ekkert sé gott til í manninum, og mér kemr í hug móðirin og barnið, þá get ég varla látið vera að segja: „skammastu þín maðr að vera að bera þetta fram, líttu á móðurina með barnið í fanginu og komdu aldrei með þenna ósóma framar.“ Þegar ég heyri menn vera að tala um hvað guð sé góðr og réttlátr, að deyða og pína hinn saklausa fyrir hinn seka, sitt eigið ástfólgna barn fyrir þorpara og bófa, svo að þeir sleppi hjá illgjörðum sínum og hinn saklausi líði, þá get ég ekki annað en hrist höfuðið af undrun. En vér skulum nú halda áfram með dæmið. Haldið þér mæður, eða þér feðr, sem elskið barn yðar með litlu minni ást en móðirin, að þér munduð fara að taka þetta elskaða barn yðar og slátra því, fórna því, pína það til dauða, kvelja það á sál og líkama, fyrir einhvern óviðkomandi illræðismann? Ætlið þér að þér munduð ekki heyra hljóð þess, þegar það veinaði um hjálp og kallaði: ó, elsku móðir, ó, elsku faðir, hjálpa mér í g u ð s  n a f n i, í nafni þinnar ó u m r æ ð i l e g u  á s t a r, ég er saklaus, lát þú eigi saklausan líða? Eða finnst yðr nokkurt réttlæti vera fólgið í þessu; eða ætlið þér að himnafaðirinn, sem elskar börn sín betr en nokkur faðir eða móðir, ætlið þér, að hann sé þetta verri en móðirin, standi neðar á tröppu kærleikans en hún. Og svo er hitt, að

eins og guð breytir eins eiga mennirnir að breyta, ef að það er rétt af guði að taka sitt eigið barn og kvelja það og pína og lífláta saklaust, þá hlýtr það að vera rétt af mönnunum líka, rétt af móðurinni að fara svo með barnið sitt, en nú mundi hver einasti dómstóll, hjá siðuðum þjóðum að minsta kosti, álíta það morð og hegna fyrir það sem morð, alt að einu fyrir það, þó að dómsiólar þessir væru af hinni rétttrúuðu kirkju. Þetta, að himnafaðrinn láti pína og deyða sinn saklausan, elskulegan son, til þess að sefa stjórnlausa reiði og heift sína við sín eigin börn, er svívirðing, sem borin er á skaparann, og það því fremr sem þetta breyska eðli var börnunum innrætt frá upphafi, þau drukku það í sig með móðrmjólkinni, eftir því sem hin rétttrúaða kirkja segir („í synd em eg fæddr og í synd gat mín móðir mig,‘, segir Davíð gamli). Himnafaðirinn er látinn vera blóðsólgin vera, full af heift og grimd, hann, sem vér trúum og vitum að er fylling elskunnar, spekinnar, dygðanna og réttvísinnar. Þessi kenning er fyrst og fremst svívirðing á guði og svo svívirðing á manninum. Það er svívirða á mannkyninu í heild sinni, að nokkur skuli hafa þessa skoðun. Og enginn maðr, sem hefir nokkurn snefil af réttlætistilfinning eða sómatilfinning, getr fengið af sér að taka á móti nokkurri sáluhjálp upp á þenna máta, upp á þann máta að hinn saklausi líði. Það er tvöfalt ranglæti að hegna hinum saklausa fyrir hinn seka. Það er að gjöra hinum saklausa hróplega rangt, og það er að láta hinn seka sleppa óhegndan. Hvers réttlætis geta menn vonast eftir af þeim dómara, sem hegnir hinum saklausa, sem réttlætið einmitt ætti að vernda? Eða hvernig stendr á því, að dómstólar manna skuli dæma öfugt við réttlæti guðs? Er það ekki eitthvað skrítið? Nei, þessi kenning er stórkostlega eyðileggjandi fyrir alt siðferði manna, það eru leifar af heiðnum hugsunarhætti, leifar af mannblótum heiðingja, niðrlægjandi skaparann, niðrlægjandi mannkynið. Það fer um mig hryllingr þegar ég hugsa til þess, hve mikil heift og grimd er enn eftir í mönuum, að geta haft þetta og haldið því sem sínu sterkasta sáluhjálparatriði — en nú kunna þeir að segja, sem vilja verja þetta, að þetta eigi ekki hér við að skýra það á þenna hátt, því að Kristr hafi gert það af fúsum vilja að fórnfæra sjálfum sér, — en bætir það nokkuð úr, er það ekki alt að einu hróplega rangt að hegna saklausum fyrir sekan, er það ekki alveg hið sama af skaparanum að taka þessa fórn gilda, að sleppa hinum seka, en hegna hinum saklausa; eða ef menn færu að verja það þannig,

að guð deyddi sjálfan sig. Sú vörn er óhugsandi, því guð getr ekki dáið, og hver sá sem þykist vera guð og deyr þó, hann er ekki og getr ekki verið guð, og ef hann þykist deyja, en deyr ekki, þá er það því verra, því það væri hræsni og ósannindi.

En þessi endrlausnarkenning getr ekki verið sönn; eins og maðrinn sáir, eins mun hann uppskera, guð geldr hverjum einum eftir sínum verkum, og svo er annað sem er athugavert, og er það það, að hin upphaflega ástæða fyrir endrlausn Krists var sú, að maðrinn hefði verið skapaðr fullkominn af guði, en fallið svo í synd þegar Eva gamla át af eplinu. En þetta syndafall hefir aldrei átt sér stað, vér getum sannað það; allir mentaðir menn vita það, eða að minsta kosti ættu að vita það, annars geta þeir ekki heitið mentaðir menn. Og svo er enn eitt. Kristr átti að leysa mennina frá eilífum dauða, frá eilífum vítiskvölum í díkinu, sem logar af eldi og brennisteini, frá djöflinum, myrkrahöfðingjanum, sem kirkjan segir að ráði yfir meginhluta dauðra manna og lifandi. En nú vitum vér að þetta víti og þessi djöfull er ekki til, hefir aldrei verið til, deilan um það hefir nú staðið yfir í nokkur ár, og ég held að því nær hver maðr sé farinn að sjá það, að óvættr þessi hafi verið og sé klerka-uppspuni einn. Kirkjan er meira að segja farin að viðrkenna það.

Guði sé lof, að vér erum farnir að sjá það, að þessi endrlausn er niðrlægjandi bæði fyrir skaparann og manninn, siðumspillandi fyrir mannkynið. Vér getum ekki sýllilega haft göfugar konur eða menn með þessari trú, ef hún ríkir í hjörtum þeirra, ekki dygðugar, ekki sannleikselskandi, ekki hræsnislausar. Ég neita því, að Kristr hafi flutt þessa kenningu. Hann kendi oss að guð væri faðirinn elskulegi, og að vér ættum allir að lifa saman sem bræðr. Kristr gaf sig í dauðann til þess að staðfesta kenningu sína, en ekki til þess að leysa menn frá hegningu, sem var ómögulegt, nema guð væri ranglátr. Ég elska Krist engu minna, ég ber engu minni virðingu fyrir Kristi, þótt ég tileinki honum ekki þetta heiðna verk. Hann er alt að einu fyrir oss, vegrinn, sannleikrinn og lífið. Hann leiðir oss til guðs með kenningu sinni og dæmi, hann er opinberun guðs meðal manna, maðr sjálfr, en þó ímynd guðs. Ég lifi í þeirri von og ég mun deyja í þeirri von, að ég sjái hann að enduðu þessu lífi, en eins og maðrinn sáir, eins mun hann uppskera. Góðr guð á himnum hjálpi oss öllum til þess að hafa það hugfast, að vér eigum allir að bera ábyrgð verka vorra, en getum ekki komið illgjörðum vorum upp á nokkurn annan, hvorki mann eða guð, hann gefi oss náð til að sjá það, hversu ranglátt það er, að hinn saklausi líði fyrir hinn seka, hversu mikið það niðrlægir guð, að ekkert annað en blóð hans elskaða barns skuli sefa hans reiði, hversu auðvirðilegt það er fyrir hvern og einn að ætla að laumast þannig frá sínum vondu verkum. Þér feðr, innrætið ekki sonum yðar þessa kenningu. Þér mæður, verjið sonu og dætur yðar fyrir henni, látið hina heilögu tilfinningu, sem svo dásamlega skín í augum yðar, er þér horfið á börnin yðar elskulegu, leiða yðr, þá er engin hætta á að þér farið að láta börn yðar hafa svo lágar hugmyndir um skaparann. Góðr guð gefi oss öllum náð til að breyta eftir Kristi og fylgja hans kenningu og dæmi. Í Jesú nafni. Amen.

# TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

—:o:—

## III. AGNOSTICISM EDA GETUM VÉR ÞEKT GUÐ?

Hvað á nú þetta orð „agnosticism" að þýða, og hvaða flokkr manna eru kallaðir því nafni? Sem heimsspekisskóli hefir flokkr þessi fengið meiri þroska á meginlandi Norðrálfunnar og í Englandi, en hér í álfu. Þó liggr hugsun þessi í loftinu hér, guðfræðisloftið er þrungið af henni. En hvað er nú „agnosticism?" Svarið verðr að það sé örvænting um það, að ná fullkominni þekkingu á leyndardómum alheimsins. Það er, að gefast upp við hinar mikilvægu ráðgátur sem mannkynið hefir verið að berjast við frá upphafi vega. Agnosticar segja að það sé ekki til neins að fást við þær, þær séu óleysanlegar, mannlegr skilningr geti ekki gripið þær. Það geti vel verið að guð sé til, og það geti líka verið, að guð sé ekki til, en það eitt sé víst, að heimrinn hafi aldrei gert út um það, og litlar líkr séu til, að nokkurn tíma verði gert út um það; sökum þessa sé því best að snúa huganum að einhverju öðru. Þetta er í fám orðum aðalatriðið í agnostica-hugmyndinni.

Hversu rótgróin og bjargföst sem trú vor kann að vera; hversu óguðlegr sem oss kann nú að sýnast hugsunarháttr þessi; þá er þó eitt, sem vér verðum vandlega að gæta, en það er það, að vér getum ekki léttilega sópað burtu sem fisi einu, hvort heldr það er trú eða vantrú, sem heilir flokkar af hugsandi, einlægum, mentuðum mönnum bera í brjósti sér. Og í flokki agnostica finnum vér menn, sem eru jafn hreinir í hjarta, jafn heitt elskandi sannleikann, jafn vandaðir í líferni sínu og hinir einlægustu og hreinustu trúmenn, og því hljótum vér að játa það, að hvað svo sem þessi agnosticism er, þá er það eitthvað, sem getr samrýmst við það að vera góðr, mikill og göfugr maðr. Vér sjáum því, að einhver hlýtr að vera orsökin til hugsunarháttar þessa. Og nú skulum vér íhuga það nokkuð nákvæmar.

Það er þá fyrst, að það er mjög eðlilegt bakslag móti hinni gömlu hugmynd, að menn geti þekt guð sem sjálfan sig. Ef vér tökum oss í hendr einhverjar gamlar skræðr guðfræðinganna, þá munum vér sjá, að þeir töluðu sem þektu þeir alt um og vissu alt um guð. Það var

ekki einungis „opinbert leyndarmál,“ heldr var það alls eigi leyndarmál. Þeir þektu guð betr en nágranna sinn í næstu dyrum. Þeir vissu hvað hann starfaði um alla eilífð, áðr en heimr var skapaðr. Þeir gátu sagt, hvernig hinar þrjár persónur guðdómsins héldu bræðralag hver við annan, hvernig þeir skemtu sér saman, hvernig þeir spjölluðu hver við annan. Hvernig þeir réðu það af einhvern tíma fyrri á tímum — þótt enginn viti hví það var fremr þá en endranær — að skapa heiminn. Hvernig þeim samdist það, að heimrinn skyldi skapast þannig, að maðrinn skyldi falla og gjöra uppreisn á móti guði. Og til þess að frelsa heiminn frá þessu hinu illa, sem guðirnir eða guð sjálfr hafði skapað, þá gengu þessir þrír félagar í bandalag, gjörðu sáttmála sín á milli, sem þeir kölluðu sáttmála endrlausnarinnar. En samkvæmt honum er sonrinn látinn stíga niðr á jörðu, þjást og deyja, faðirinn gengr inn á það að senda hann og líta eftir verkinu með honum, en heilagr andi tekr að sér það hlutverk, að fullkomna alt og leiða það til lykta eftir að krossfestingunni er lokið. Um alt þetta tala þeir með svo mikilli vissu, sem væru þeir nákunnugir guði og þektu alt um hagi hans, rétt eins og sveitamálin í héraði sínu. En er það nú ekki ofr eðlilegt, að eftir því sem sjóndeildarhringr manna stækkaði og guðshugmyndin þroskaðist, þá kæmi stórkostlegt bakslag á móti öllum þessum öfgum og bágbyljum.

En þetta er ekki einungis bakslag á móti þessum kunnugleika á guði, heldr liggr og rót þess dýpra og er siðferðisleg. Agnosticism er bakslag á móti hinni röngu og svívirðilegu hugmynd um guð, sem myndast hefir á fyrri tímum. Agnosticar segja: „Ef að þetta er yðar guð, þá viljum vér ekkert hafa með hann að sýsla. Vér viljum heldr tilbiðja náttúruna, vér viljum heldr dýrka mannúð og mentun; vér viljum gjöra alt hið góða sem vér getum, í þessu myrkranna ríki; en vér getum ekki beygt kné vor fyrir guði þeim, sem vér ekki getum borið virðingu fyrir.

Svo er og það, að hin vaxandi þekking hinna nýrri tíma á þessum dásamlega alheimi vorum, hún hefir og átt þátt í að framleiða þennan hugsunarhátt. Það var svo auðvelt að búa sér til mynd af guði í gamla, smáa alheiminum, í alheimi Dantes, í alheimi Miltons, í alheimi Gamla Testamentisins, í alheimi þeim sem var miklu minni, en hið núverandi ólkerfi vort,' þetta sólkerfi, sem vér nú vitum að er ekki stærra en ósegjanlega lítið sandkorn á sjávarströndu, í samanburði við hinn ó-

mælilega alheim. Það var mjög auðvelt segi ég, að ímynda sér að menn gætu þekt öll deili á guði eða skapara jafn lítils heims og þessi var. En þessi alheimr hefir rakist í sundr, hann hefir runnið í sundr eins og morgunþokan; og þegar vér lítum í kringum oss með opnum augum, upp og niðr og alla vega, þá sjáum vér alls staðar takmarkalausa alvídd. Það virðist því hverjum hugsandi manni vera ósegjanleg frekja að segja, að menn geti skilið og rannsakað hið óskiljanlega og órannsakanlega, að gera kröfu til þess að þekkja það, sem hugsunin þreytist á að reyna að leysa. Og ég trúi því sannarlega, að agnostiski maðrinn beri meiri lotningu og virðingu fyrir guði, þótt hann að eins beygi höfuð sitt fyrir hinu óþekta og óendanlega, er hann segir: „Þetta alt er mér ofvaxið,“ heldr en sá maðr, sem með kompás og mælikvarða mælir út á hinu litla korti sínu hið takmarkalausa rúm hins eilífa allsherjar guðs, rétt eins og hann væri að mæla út „township“ í sveitum úti.

Þá má og geta þess, að jafnframt því að heiminum hefir farið fram og þekkingin hefir aukist, þá hafa hinar gömlu sannanir fyrir tilveru guðs, smátt og smátt orðið úreltar. Til skýringar þessu skulum vér taka sönnunina fyrir tilveru guðs, sem bygð er á því að alt í heiminum svari til síns augnamiðs [the argument from design]. Það átti að vera sláandi vopn í höndum annara eins manna og Paleys. Úrið hans Paleys er orðlagt í guðfræðisdeilum. Hann sagði, að í úri sínu væri hver hlutr gerðr í vissum tilgangi, og þessi tilgangr benti á einhvern er væri valdr að honum. Þannig sé því og varið í ríki náttúrunnar. Ein tegund blómanna sé löguð fyrir heitu löndin og vaxi því þar, önnur tegundin sé vel fallin til þess að vaxa fast við snjólínuna á hinum hæstu tindum Mundíu- eða Andesfjalla, og enn sé ein vel löguð til að vaxa einhvers staðar annars staðar. Annað dæmi megi taka af eyjunum í Kyrrahafinu: þar finni menn því nær vænglaus fiðrildi, sem alls eigi geti lyft sér upp frá jörðunni eða haldið sér uppi í loftinu. Alt þetta og þúsund dæmi önnur bendi á tilgang skaparans. En vísindamaðrinn skýrir alt þetta á annan hátt. Hann segir: Eðlilega getr yðr fundist þetta benda á tilgang, en það er líka mjög auðvelt að gera grein fyrir því sem náttúru-úrvali [natural selection]. Þér segið, að blómið sem vex í heitu löndunum bendi á tilgang. Af því að það sé vel lagað til að lifa þar, þá hafi skaparinn látið það þrífast þar. En vísindamaðrinn segir nei. Það lifir, segir hann, í heitu löndunum af því, að það er

þar framleitt og lagað eftir lífsskilyrðunum þar. Ef það væri ekki lagað eftir lífsskilyrðum þeim sem þar ríkja, þá mundi það deyja. Þannig er því varið með fiðrildin á Kyrrahafseyjunum. Hvernig stendr á því, að þau eru vænglaus? Hver er orsökin að þessum leyndardóm? Svarið verðr þetta: Eyjar þessar eru að miklu leyti gróðrlausar og skóglausar, og um þær blása harðir vindar árið út og árið inn. Því er það, að skorkvikindi þau sem vængi hafa og lyfta sér á vængjunum upp í loftið, feykjast út á sjóinn og farast. Þau ein sem vængjalaus eru halda sér við jörðina, þau lifa því af og tímgast, en eins og allir geta séð, eru þau vel fallin til þess að lifa á þessum eyjum. Ef þau væru það ekki, þá mundu þau deyja út. Þannig segja vísindamennirnir, að þeir geti ekki tekið hana gilda þessa gömlu sönnun. Og ég fyrir mitt leyti hygg að þeir hafi rétt fyrir sér, en þetta haggar þó eigi því, sem ég hefi áðr um talað, að gegnum aldirnar renni samanhangandi keðja af viðburðum, þar sem liðr tengist við lið og alt sýnir eilífan framhaldandi skynsemdarfullan tilgang. Með tilgangi meina ég það, sem kemr oss fyrir sjónir sem tilgangr, og vér getum skilið eitthvað í.

Önnur ástæðan fyrir því að vér getum ekki þekt guð, segja þeir oss að sé bygð á því, er nú er alment viðrkent sem grundvallaratriði í hinum nýrri vísindum, og er það „skyldleiki þekkingarinnar“ [relativity of knowledge]. En hvað meinum vér nú með því? Einungis það, að vér höfum orðið þess vísari að vér getum ekki þekt neitt, nema að svo miklu leyti sem það stendr í einhverju sambandi við sjálfa oss. Ég þekki t. d. ekki, hvað bókin þessi á borðinu er í raun og veru. Ég snerti hana og finn að hún er hörð. Ég horfi á hana, og sýnist hún vera ferstrend og dökk að utan. Ef ég tek hana og slæ henni á borðið, þá heyri ég smell, ef ég færi að bragða á henni, þá myndi ég finna bragð af pappírnum, eða blekinu, eða leðrinu sem bókin er gjörð af. Þannig kemr hún mér fyrir sjónir, á margvíslegan hátt, en hvað sé þar fram yfir, eða hvort það sé nokkuð, það er mér ókunnugt um. Þekking mín á henni er skilyrðum bundin [relative], hún stendr í sambandi við athugunar hæfilegleika mína. Þannig segja þeir að hér sé takmark, er enginn geti yfir komist. Þannig getum vér aldrei fengið þekkingu á því hvað hún sé í sjálfu sér þessi hin mikla vera, sem vér erum að tala um. Vér þekkjum að eins það sem fyrir augun ber, opinberanir lífsins, að svo miklu leyti sem vér getum athugað þær. Þess vegna segja þeir: — og það

virðist vera mjög skynsamlegt og hugsanfræðislega rétt — skulum vér binda oss við það sem er mögulegt og framkvæmanlegt, fyrst vér getum ekki fengið neina þekkingu á þessari óendanlegu og eilífu veru. Ég er þeim líka hjartanlega samþykkr. Vér skulum binda oss við það, sem er mögulegt og framkvæmanlegt. En kann ske einhver vildi nú gera svo vel og segja mér, hvað sé mögulegt og hvað geti orðið að notum í tilliti til mannlegs lífs? Einungis sá maðr og einungis sú þjóð hefir nokkru góðu eða miklu til leiðar komið í heiminum, frá upphafi vega og alt til þessa, sem hefir trúað á mögulegleika hins ómögulega. Engin þjóð og enginn maðr hefir nokkru sinni verið mikill, sem hefir haft orðið ómögulegt í orðbók sinni. Er hægt að segja, að nokkuð sé ómögulegt? Þér getið sagt siglingamanninum eða fræðimanninum eða vísindamanninum svo oft sem þér viljið, að þeir geti aldrei komist að norðrheimsskautinu, og þó að þeir geti það, þá græðist ekkert við það. En alt fyrir það hafa menn sí og æ verið að berja á þessar jökuldyr norðríshafsins, og eru að því enn þann dag í dag; og þrátt fyrir allar vitrar ráðleggingar, munu þeir berja á þær þangað til þær opnast. Menn munu óefað finna leið norðr fyrir Asíu og norðr fyrir Ameríku, og þvert yfir ísmerkurnar. Því að það er eitt af hinum dýrmætustu einkennum þessarar mannlegu náttúru vorrar, að vilja eigi játa það að nokkrar dyr séu óuppljúkanlegar. Hún trúir því fastlega sem Kristr sagði: „Knýjið á og mun fyrir yðr upplokið verða.“ Þannig hefir hún knúð á dyrnar frá upphafi og mun gjöra það til eilífðar. Ómögulegt! Nei! Þúsund hlutir, sem einu sinni fyrrum voru ómögulegir, eru nú hversdagslegr vani. Það var einu sinni ómögulegt að byggja skip til þess að sigla yfir höfin, en þó var það gjört. Það var einu sinni ómögulegt, að hinn litli blástr gufunnar úr katlinum gæti gjört menn færa um að stjórna skipum sínum, svo að þeir gætu siglt á móti veðri, vindi og straumi, áðr fyrri var þetta ómögulegt, en nú er það gjört. Áðr fyrrum var það ómögulegt, að byggja járnbrautir yfir árnar, eða grafa í sundr fjöllin, eða fara hringinn í kringum jörðina. Þetta sögðu allir ómögulegt nema fáeinir draumóramenn; og þó var það gjört. Eða, hvað er það sem ekki megi að gagni verða, hvað er það sem er öldungis gagnslaust fyrir mann að þekkja? Enginn sá maðr er til, sem hafi svo djúpa þekkingu að hann geti sagt um nokkurn hlut eða hugmynd eða fræði, að það sé gagnslaust að læra að þekkja það.

Þeir menn hafa verið til, sem hafa viljað láta hætta stjörnufræðisnámi á skólunum og binda námið eingöngu við jörðu þessa. En þó vísa stjörnurnar sjálfar mönnum leið, er þeir sigla yfir höfin á jörðu þessari. Þessi fjarlægu og óútgrundanlegu öfl alheimsins eru daglegir þjónar manna. Var ekki gagn að því er Franklín fór út með dreka sinn, til þass að reyna hvort eldingin vildi koma niðr úr skýjum og festast á hendi hans? Var þetta eintóm forvitni og ekkert annað? Þó hefir afleiðingin af þessari vísindalegu forvitni orðið sú, að breyta útliti heimsins og gefa oss nýja menning. Og þessi undra-kraftr, sem blikaði og stökk með óttalegri gleði frá einu stormskýjinu í annað, er þó orðinn daglegr þjónn manna um heim allan.

Heimrinn vill ekki trúa því að nokkr hlutr sé ómögulegr. Heimrinn vill ekki trúa því að nokkur hlutr sé til, sem eigi megi hafa gagn af. Og hvað mig snertir, þá verð ég tregr til að játa það, að það sé einskisvert að fá þekkingu á guði, ef að menn á annað borð geta þekt hann. Þér vitið það svo vel, að ég trúi því, að þekking á guði mundi breyta öllu hinu daglega lífi voru. Ég trúi því að frumreglur siðgæðisins hafi myndast fyrir félagslíf manna og reynslu; og hvort heldr til er nokkur guð eða enginn, þá mundi sannleikr og réttr, hreinleiki, réttlæti, kærleikr og öll hin siðferðislegu öfl heimsins vera hin sömu, en þó mundi trúin á guð, jafnvel hvað siðgæðið snerti, vera gagnlegra heiminum en nokkuð annað sem mögulegt væri að hugsa sér. Ég skal gjöra hið besta sem ég get, þótt ég viti að ég deyji á morgun; ég skal fremja réttlæti; ég skal reyna að hjálpa þeim sem eru hjálparþurfa; ég skal gjöra alt sem ég get, til þess að gjöra heiminn farsælli og betri, hvort heldr ég á að lifa til eilífðar eða ekki, hvort heldr til er guð á himnum, sem hirðir nokkuð um það, eða ekki. En setjum nú svo, að ég viti að til sé skyni gædd og kærleiksrík vera í djúpi óendanleikans fyrir ofan mig, að ég sé guðs barn, að hann varði það hvað ég geri, hvort ég geri það sem ég veit að er rétt eða ekki, að hann gefi gætr að byrðum þeim sem ég ber, að hann þekki stunur og þjáningar hjarta míns, freistingar þær sem ég verð að stríða við, að hann skilji baráttu þá, sem ég verð að heyja — það skiftir engu, hvort hann snertir byrðarnar fingri sínum til að létta þeim á mér; það skiftir engu, hvort hann tvístrar skýjunum sem myrkva vegu mína; það skiftir engu, hvort hann gerir nokkuð annað, en að sitja þar kyr og afskiftalaus —, ef að ég veit að hin skyni gædda og kærleiksríka vera er þar, þá verðr það hin sterk-

asta hvöt í lífi mínu sem mögulegt er að hugsa sér. Það gjörir lífið óendanlega þýðingarmeira. Ég trúi því að heimrinn reyni að komast að þeirri þekkingu á guði, sem hægt er. Það er sama þótt mönnum sé sagt það hvað eftir annað, að það sé gagnslaust, og þó að það væri nú ekki gagnslaust, þá væri það þó ómögulegt, alt fyrir það mun heimrinn aldrei hætta að leita að því.

Vér skulum því snúa huga vorum að þessu betr. Fyrst skulum vér athuga með hverju eða hvernig vér eigum að finna guð. Höfum vér nokkra hæfileika, sem um það eru færir? Það er trú mín, að til sé að eins ein þekkingar-aðferð í alheiminum, hvort heldr menn eru að leita að þekkingu á guði eða einhverjum steingjörfingi, hvort heldr það er að þekkingu á skyldu manna eða á blómi einu, hvort heldr það er á himnum uppi, eða á jörðu niðri, eða í undirdjúpunum. Þekkingar-aðferðin er að eins ein, það er sú sem fæst með vísindum. En með vísindum meina ég ekki að eins þekkingu á dýrum, á trjám, á fjöllum, á steingjörðum beinum, á stjörnum, heldr þekkingu þá sem fæst fyrir eftirtekt, samanburð og alls konar fróðleik. Þetta er sú aðferð sem vér verðum að hafa til þess að leita að guði, eða að læra að þekkja eitt eðr annað í alheiminum. [Framh.].

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

---

1. Ritningin er óleysanlega vafin inn í allar mentahugmyndir eða réttara menningarsögu tíma vorra, bæði í Evrópu og Ameríku.

Fyrir fræðimanninn í sögu, í bókmentum, í heimspeki, í hinum fögru listum, í stjórnfræði mundi það vera lakara að þekkja ekkert til þessarar einu bókar, ritningarinnar, en þó að hann þekti ekkert til Hómers, eða Platós, eða Virgils, eða Cicerós, eða Dantes. En þó kveðr mest að þessu í hinum fögru listum. Ef vér förum að skoða myndasali hinna nýrri tíma, þá munum vér sjá að flestöll listaverkin, bæði málverk og myndastyttur, eru einmitt tekin úr ritningunni. Alt í frá falli Rómaborgar til vorra daga, hafa listamenn Európu sótt svo mikið til hinnar kristnu trúar, að það mætti segja að þekkingin á þyngdarlögmálinu væri ekki nauðsynlegri til þess að skilja stjörnufræði og eðlis-

fræði, en þekkingin á ritningunni til þess að skilja listaverk Norðrálfunnar.

2. Þá er ritningin hin besta saga um þroskun trúarbragðanna. Í ritningunni höfum vér ljósari og skýrari mynd, en nokkurs staðar annars staðar af því, sem kalla mætti þroskun trúarbragða og siðgæðishugmynda í stórum stíl. Ritningin sýnir oss, hvernig Ísraels þjóð hafi vaxið og þroskast í tíu eða tólf aldir. Hún sýnir oss hvernig hún fyrst hafi haft lágar og fátæklegar hugmyndir um guð og tilbeiðslu alla og siðgæði, en síðan lyft sér upp til hugmyndar Krists, sem allir játa, að standi einna fremst meðal hinna trúarlegu og siðferðislegu kenninga þjóðanna. Ég hefi þegar áðr drepið á ýmsar sannanir þessu til stuðnings, svo sem þá er Gyðingar, jafnvel löngu eftir daga Mósesar, héldu áfram að dýrka aðra guði jafnframt Jehovah, eða réttara Jahwe, að þeir höfðu mjög svo lágar hugmyndir um guð, létu hann glíma, eta, iðrast, reiðast, að þeir trúðu ekki á annað líf, sjá Préd. Sal. 3, 19., er hann segir að maðrinn sé eins og fénaðrinn, deyji eins og hann, hafi enga yfirburði yfir hann, að Gyðingar voru hermenn hinir grimmustu, sem sést á því, hvernig þeir strádrápu alt í borgunum sem þeir unnu, eða þegar Samúel hjó í sundr Agag konung, eða þegar Davíð lét herfa niðr og saga í sundr íbúa borga þeirra, er hann hertók, eða þegar þeir lengi fram eftir fórnuðu sínum eigin börnum. En svo smádregr úr þessari grimd, og vér getum í ritningunni séð hvernig þjóðin stígr spor og spor frá þessari grimd og tryllingi, frá fjölgyðistrú sinni til trúarinnar á einn guð. Guð þeirra fer að verða hinn heilagi faðir, er elskar öll sín börn. Í stuttu máli sagt, getum vér séð öll stig þau, er þjóðin stígr frá niðrlægjandi fjölgyðistrú til hinna hæstu trúarlegu hugmynda, sem nokkur fornþjóð hefir náð. En hver, sem vill fara að lesa ritninguna á þenna hátt, hann verðr að gæta þess, að lesa þá ekki bækurnar í þeirri röð, sem þær standa í ritningunni, þá kynni að verða hætt við töluverðum ruglingi á hugmyndunum. Því stundum eru heilir og hálfir kapítularnir, stundum miklir kaflar einnar bókar, skrifaðir mörg hundruð árum seinna en hitt af bókinni. Sem leiðarvísir í þessu eru fáar bækur jafn góðar, sem Kuenens „Religion of Israel“ eða Ewalds „History of Israel.“

### Til kaupenda Dagsbrúnar.

Af því að oss hefir nýlega borist tálsvert af myndinni Faðir vor, sem margir hafa þegar lokið lofsorði á, og til þess að sem flestir geti orðið hennar aðnjótandi, höfum vér gert þá ákvörðun, að allir, sem skuldlausir verða við Dagsbrún 15. júlí næstkomandi, fái hana í kaupbæti.

Nýjir kaupendr að II. árg. Dagsbrúnar fá í kaupbæti myndina Faðir vor. Þeir geta og fengið I. árg. Dbr. fyrir hálfvirði, að eins 50 cents.

---



---

G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir

---

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---


„DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

| | |
|---|---|
| Árgangrinn kostar í Vestrheimi | $1,00 |
| Sendr til Íslands en borgaðr hér | $0,75 |
| Sendr til Íslands en borgaðr þar | Kr. 2,00 |

— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. —

Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

---

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

---

Prentsmiðja G. M. Thompson.